# Ísland og Ameríka

Fyrirlestur

fluttur í Reykjavík 5. febrúar 1908

af

Páli Bergssyni



Reykjavík

Prentsmiðjan Gutenberg

1908

*Herrar mínir og frúr!*

Eg hefi hér að flytja í kvöld svolítinn fyrirlestur, sem eg kalla Ísland og Ameríku, og vonast eg eftir að þið sýnið þá velvild og þolimmæði, að gefa mér hljóð, þá litlu stund sem eg tala.

Það kann nú máske ýmsum að virðast, sem það láti næst því að taka guðs nafn og leggja það við hégóma, þegar farið er að bera Ameríku saman við Ísland, og það er þó einmitt það sem eg ætla mér að reyna til að gera. Að minsta kosti mundi það hafa þótt fyrir nokkrum árum síðan, þó ekki hefði verið nema hjá Vestur-Íslendingum. En tíminn er sístarfandi. Því sem hann ekki kom í verk í gær, það gerir hann í dag eða á morgun og líkt er með þetta. Það sem fyrir nokkrum árum virtist flestum vera ómögulegt, sýnist nú fjöldanum vera vel kleyft, n. l. að gera dálítinn samanburð á þessum tveimur löndum. Ekki má þó skilja það svo, að hér sé um alla Ameríku að ræða. Nei, nei, því hún er svo ógnar ólík sjálfri sér, sem ekki er að furða, þar sem hún nær því nær íshafanna á milli, og hefir því fram að bjóða bæði heimsskautalönd og hitabelti, jafnvel suðurríki Bandamanna geta talist til heitu landanna og aftur nyrzti hlutinn Alaska hefir heimsskautaloftslag.

En eg ætlaði ekki að tala um Ameríku í heild sinni, heldur um þá kafla hennar, þar sem meginþorri Íslendinga þeirra er vestur hefir flutt hefir tekið sér bólfestu. Eg

ætla að gera ofurlítinn samanburð á Minnesota og Dakota í Bandaríkjunum, og Manítóba og Norðvesturlandinu í Canada og Íslandi. Á bræðrunum íslenzku beggja vegna hafsins, kjörum þeirra, lifnaðarhætti, hugsunarhætti o. fl. Auðvitað getur nú útreikningurinn hér, ef til vill ekki orðið sem réttastur, þar sem eg hefi verið í burtu af Íslandi í 20½ ár, og verð því máske á eftir tímanum, að því leyti sem það snertir, jafnvel þó eg í anda hafi reynt að fylgjast með öllum þeim breytingum og framförum sem hér hafa orðið á hinum síðari árum. Dettur mér því ekki í hug að fullyrða, að hvert það orð sem eg kann að tala, verði óraskanlegur sannleiki, því eg er nú máske einn af þeim, auðvitað örfáu mönnum, sem getur ef til vill yfirsést, heldur hitt, að eg skal ekkert það segja, sem ekki er samkvæmt minni heztu vitund, hjartans sannfæringu og samvizku. Drýgi eg því synd, þá verður það af fáfræði en hvorki verður það breiskleika og því síður ásetningssynd.

Eg býst nú við, að þessi stefna mín, að segja bláberann sannleikann jafnt á báðar hliðar, verði ekki sem vinsælust, hvorki fyrir vestan haf né hér heima, en það verður að sitja við það. Jæja, það fer þá fyrir mér eins og Skuggasveini sáluga þarna um árið, að eg verð útskúfaður öllum frá.

Eins og eg tók fram áður, verður það sem eg tala um Íslendinga vestra næstum eingöngu um þá, sem hafa tekið sér bólfestu í hinum fjórum áðurnefndu ríkjum eða fylkjum. Eins vil eg taka það fram, að sú sérþekking sem eg hefi á landbúnaði, er meir fengin af bæði skriflegum og munnlegum fréttum, heldur en af eigin reynd, því eg hefi öll þau 20½ ár sem eg hefi verið í Ameríku, einlægt búið í stórbæjnm, n. l. Winnepeg í Manítóba og Duluth í Minnesota og ekki haft tækifæri til að ferðast langt yfir, en þó hygg eg naumast að eg þurfi að víkja frá sannleikanum fyrir þær sakir.

»Hvernig var veðrið þarna hjá ykkur?« var einatt fyrsta spurningin sem lögð var fyrir langferðamanninn,

þegar hann kom á einhvern bæinn á Íslandi hér í fyrri daga, annaðhvort til að fá sér blöndusopa að drekka, eða til að beiðast gistingar. Mun elda eftir af þeim sið enn þá, því margir hafa spurt mig fyrst að hvernig veðrið væri í Ameríku og ætla eg nú með fám orðum að reyna að svara þeirri spurningu. Auðvitað mun það nú vera að bera í bakkafullann lækinn, þar sem Canadastjórnin sendir árlega út um heim allan bæklinga þess efnis, fyrir utan tugi agenta, að láta menn vita um hið óviðjafnanlega heilnæmi sem Ameríkuloftið hefir í sér fólgið. En sínum augum lítur hver á silfrið og svo verður það líklega hér. Eg býst við að geta ekki gert annað eins háfleygi úr heilnæmi loftslags og veðurs eins og Canadastjórnin. Annars vil eg leggja það undir dóm allra skynberandi manna, hvort ákaflegur mismunur hita og kulda getur verið svo einkar hollur. Það má heita svo, að loftslag sé að miklu leyti svipað alla leið frá nýlendu Íslendinga í Minnisóta og vestur að Klettafjöllum, þar eru oft mjög sterkir hitar á sumrum en grimdir á vetrum. Þó er einna ákveðnasti munurinn í Dakota og Manitoba. Í Minnisóta verður naumast eins kalt á vetrum og í Alberta, sem liggur austanmegin Klettafjallanna. Eru sumarhitarnir þar naumast eins tilfinnanlegir og veturinn líka öllu mildari, enda getur nú líka fyr vel verið; því að í þessum tveimur ríkjum, Dakota og Manitoba getur hitinn á sumrum orðið alt að því 38 stig á celsius í skugganum, en það er nálægt blóðhita, og svo aftur frostið á vetrum um 45 stig. Auðvitað er nú þetta ekki á hverju ári, en segjum 35 stiga hiti og svo aftur 40 stiga kuldi. Það er hreint engin undantekning. Líka fékst sönnun fyrir því síðastliðinn vetur, að enn þá kaldara getur orðið en eg til tók hér að framan, þá komst frostið sumstaðar úti á landsbygðinni í 51 stig á celsíus. Að þessi geypimismunur á hita og kulda geti verið til þess að styrkja heilsu mannsins og lengja líf hans er dálítið sem Canadastjórnin aldrei getur lamið inn í mitt höfuð. Trúi þeir sem vilja, eg get það ekki, og nokkuð er það, að í Ameríku verður hreint ekki langlífara

fólk að meðaltali en víða annarsstaðar; ekki t. d. líkt því eins gamalt og hér heima á gamla Íslandi. Sama er að segja með ýmsa sjúkdóma, þeir eru þar engu síður algengir en hér, enda víst sárfáir Íslendingar, sem skift hafa um til hins betra, að því leyti er heilsuna snertir, með því að flytja vestur, en fjöldinn til hins verra. Um barnadauða þarf eg ekki að tala, það munu flestir heyrt hafa að hann er þar hóflaus í hitunum á sumrum t. d. í Winnipeg, einkanlega meðal nýkominna innflytjenda. Öðru máli er að gegna með tíðarfarið vestur á Kyrrahafsströnd og í Útah, í báðum þeim stöðum eru allmargir Íslendingar. Þar er fremur milt og gott loftslag, þó nokkuð rigningasamt á Kyrrahafsströndinni; en mikið efamál er það, hvort þar sé betra eða jafnvel eins gott að búa, til að afla sér fjár, eins og í Norðvesturlandinu. Lönd vestur á ströndinni eru víða dýr, og mjög ervið til ræktunar. Aftur hefir atvinna verið þar oft góð, þar til nú síðastliðið missiri, að verið hefir þar eins ilt um atvinnu og nokkursstaðar annarsstaðar í Ameríku, eftir því sem öllum fréttum þaðan ber saman um. Af eigin reynd get eg ekki dæmt um landið, því eg hefi þangað aldrei sjálfur komið.

Næst á eftir veðrinu hafa ýmsir spurt mig að því, hvernig Íslendingum liði nú yfirleitt vestan hafs. Efamál sem ekki er svo auðvelt að svara, það er svo mismunandi. Samt get eg hiklaust sagt, að sumum líður vel, öðrum allvel, og að enn aðrir eigi í basli. Óhætt mun samt vera að fullyrða, að þeim sem hafa tekið sér bújarðir strax, eða skömmu eftir að þeim komu vestur, líði efnalega betur en hinum, sem settust að í bæjunum. Nokkrir þeirra bændanna, eru orðnir vel efnaðir eftir íslenzkum mælikvarða, aðrir komast vel af, en svo er auðvitað hægt að finna fátæka innan um. En margt handtakið og marggann svitadropann hefir það kostað flesta að koma sér í þægilegar kringumstæður; að minsta kosti mun mörgum þeirra hafa fundist svo, sem flutt hafa vestur, ekki sízt þeim, sem áttu hér við allþægileg lífskjör að búa. Það eru talsverð umskifti fyrir sjálfseignarbóndann sem lengst-

um hefir haft yfir öðrum að segja, en ekki verið vinnumaður annara, sem ekki hefir ef til vill þurft að vinna nema þegar honum sýndist svo, að koma til Ameríku, búinn að eyða þá öllu, eða því nær öllu, sem hann átti, og fara þar út í eyðiskóga eða merkur, með konu og börn; verða að byggja sér þar bjálkakofa sem vanalega geta ekki tekist í nokkurn samjöfnuð við þolanlega torfbæi hér á Íslandi. Vinna svo frá morgni til kvölds heima hjá sér 6 mánuði úr árinu, en hina 6 mánuðina verður hann að vinna ýmist við járnbrautarvinnu, skógarhögg eða þá skurðagröft eða strætalagningu í bæjunum, ef til vill mörg hundruð mílur frá heimili sínu, oft og tíðum innan um alls konar óþjóðalýð, og óþverra, til þess að afla sér peninga að kaupa fyrir nauðsynjar heimilisins.

Og þá er nú ekki að líkindum léttara fyrir þá, sem aldrei fyr hafa það sem kallað er »drepið hendi sinni í kalt vatn«, eins og hægt er að segja um ýmsa heil- og hálflærða skólamenn, og eins um marga syni efnaðra bænda hér heima. Í því tilliti hefir hefð og völd ekkert að segja, það verða að vera hendurnar, samfara áræði og hyggindum sem riðja brautina upp á hæðina. En svo þegar reynslutíminn er á enda, þegar menn líta yfir akurinn, sem þeir hafa plægt og sáð í, sjá að hann er farinn að bera ávexti erviðisins, sjá að svitadroparnir sem menn hafa felt, hafa orðið til þess að vökva ræturnar, svo blómin gætu vaxið. Vita að bletturinn sem þeir hafa beitt öllum sínum kröftum til þess að gera arðberandi, er nú orðin þeirra lögmæt eign, og að hann framvegis er nógur til þess að framfleyta allri fjölskyldunni sómasamlega, þá fyrst fer að komast inn hjá mönnum sú heillavænlega hugsun, að hérna sé þó heimilið þeirra, ekki að erfðum tekið eður fyrirhafnarlaust, heldur fengið með súrum sveita og afneitun flestra lífsþæginda. Og nú skapar þetta nýjan hugsunarhátt hjá mönnum. Þeir finna með sjálfum sér að þeir eru sjálfstæðir, þurfa ekki að vera upp á aðra komnir, né krjúpa fyrir öðrum, og það sem mest er í varið, þeir vita að þetta hefir alt orðið fyrir einbeitta við-

leitni og áhuga þeirra sjálfra. En svo gleymir nú kannske margur þeim sannleika, að ef hann hefði lagt eins öfluglega fram krafta sína, andlega og líkamlega á gamla landinu, að honum hefði getað liðið þar eins vel að minsta kosti, ef ekki betur.

Þá vil eg nú leyfa mér að fara nokkrum orðum um bæjarlífið meðal landa vestra, eins og mér hefir komið það fyrir sjónir, og því er eg nokkurn veginn kunnugur af eigin reynd. Vitanlega er hér aðallega að ræða um Winnipeg, því það er nokkurs konar lendingarstaður íslenzkra vesturfara, og auk þess um því nær þrjá tugi ára höfuðból Íslendinga í Vesturheimi. En að miklu leyti gildir hið sama í öðrum borgum og bæjum, þar sem þeir hafa tekið sér bólfestu vestan hafs, skömmu eftir að þeir komu til landsins, eða áður en þeir voru búnir að kynnast til muna eða læra málið.

Þegar komið er til Winnipeg eru Íslendingar flestir félausir, mállausir, á þarlenda tungu, og vankunnandi í verklegu tilliti á flestöll vinnubrögð þar. Þeir eru oft meira og minna lasnir, sem bæði mun vera af löngu og misjöfnu ferðavolki, og hinni stórfeldu breytingu loftslagsins. Hefir það því hlotið að vera alt annað en glæsileg aðkoma á hinum fyrstu árum, meðan menn áttu þar fáa sem enga vini eða frændur að flýja til. En nú er þetta alt öðru máli að gegna á hinum seinni árum. Flestir þeir sem að heiman koma mæta strax í Winnipeg einum eða fleirum frændum eða kunningjum sínum, eða þá að minsta kosti einhverjum Íslendingum og það mega þeir Winnipeg-Íslendingar eiga með fylsta sanni að þeir reyna að hjálpa og leiðbeina nýkomnum löndum sínum eftir mætti.

Jæja, en hvað verður nú um þessa nýkomnu menn, þegar þeir eru búnir að hrista af sér ferðarykið? Þeir sem ekki fara þegar og taka sér land, setjast vanalega að í borginni, og reyna að fá sér vinnu í skurðum eða á strætum meðan sú vinna fæst, en svo eitthvað út á landsbygðina til bænda eða þá í járnbrautarvinnu þegar ekki

fæst meira að gjöra í borginni. Þarna verða þeir nú að vinna baki brotnu allan daginn, hversu sem hitinn er óþolandi, og hversu sem íslenzku vaðmáls eða prjónafötin verða gegnumþvæld af svitanum, kunna ekkert verk að vinna, eins og þeir höfðu áður vanist því, geta ekkert orð talað eða skilið í því máli, sem talað er við þá, já, ekki nóg með það, heyra í tilbót einhvern söng í verkstjóranum, þar sem sérstök áherzla er lögð á vissa tóna. Ef einhver er nærstaddur, sá sem enskuna skilur, kallar hann þetta bölv og ragn, en til allrar guðslukku skilur nýkomni landinn það ekki: og er ekki frítt um að hann stundum álíti þetta hól eða þá að minsta kosti einhver spaugsyrði. Svona gengur það nú fyrsta sprettinn. Vinnan getur kan ske enzt í tvo til þrjá mánuði fyrsta sumarið, því ætíð er mikið af því liðið þegar vestur kemur, eða þangað til að Manitobaveturinn er búinn að ná fullkomnu valdi yfir borginni, búinn máske að gera að frostkúlu marga eyrnasnepla eða nef, sem hafa vogað sér fáein skref út fyrir dyraþrepskjöldinn.

Auðvitað hafa nú margir sem unnið hafa, eignast fáeina dollara, en þeir hafa jafnótt verið brúkaðir fyrir ýmsar þær lífsnauðsynjar, sem ekki er hægt án að vera svo að þegar veturinn gengur í garð, þá er ekki annað að treysta á en hendurnar, ef annars er nokkuð hægt að fá að gjöra fyrir þær, ellegar þá góðsemi náungans, en sá náungi er aðallega íslenzku verzlunarmennirnir, sem oft og einatt hafa hjálpað fátækum landa sínum, með því að lána honum lífsnauðsynjar sínar, ekki að eins fyrsta veturinn, heldur vetur eftir vetur, já, einatt í mörg ár, því jafnan hefir hætt til að reka að því sama, að á haustin hefir sumarkaupið verið uppgengið, bæði til að borga með skuldirnar, sem fallnar hafa verið á eftir veturinn, og svo fyrir ýmsar nauðsynjar, sem sérhvert heimili þarfnast. Byrjar nú sama umferðin á ný, lántaka og skuldalúkning, það er að segja, hjá þeim sem ráðvandir eru. Um hina vita verzlunarmennirnir bezt sjálfir og munuð þið, kæru landsmenn, ef til vill geta gjört ykkur dálitla hugmynd

um þá, en það hygg ég að ástandið fyrir vestan muni engu betra að því leiti til en hér. Aftur eru nú aðrir og það eru einmitt þeir sem oftar en hitt, eiga í vændum bjartari framtíðina og hamingjunni sé lof, ég held það sé meiri hlutinn, er hugsa sem svo: »Gjörum alt sem við getum til þess að þurfa ekki að vera upp á aðra komnir í vetur, svo við ekki neyðumst til að látu helming af kaupinu okkar næsta sumar fara upp í skuldirnar, eins og núna; þeir segja svo hérna í Ameríku hvort sem er, að öll heiðarleg vinna sé virðingarverð, og hví skyldum við þá ekki rétt eins og gömlu karlarnir þarna, taka exi og sög í hönd og saghest á öxlina. (Það eru tvær krossspítur með ás á milli, þar sem spítan sem saga á, er lögð ofan á til að halda henni fastri meðan sagað er) og reyna að koma okkur svo í mjúkinn við eins margar eldhúsdyr í borginni, eða rjettara sagt, konurnar, sem þar koma til dyra, og við getum, og vita hvort þær ekki þarfnast neins viks, eða þá að minnsta kosti sjá aumur á okkur og láta okkur fá svo sem einn eða þá hálfan feðming af við til þess að saga og kljúfa í eldstóna. Fáum við nú eitthvað að gjöra, þá fyllist sál vor óumræðilegri gleði, sem þeir ekki geta gjört sér greinilega hugmynd um, sem ekki hafa reynt samskonar. Það verður þó ekki fyr en á morgun sem við þurfum að ganga að 50 eða kannske 100 eldhúsdyrum, til að beiðast hins sama án þess að fá áheyrn. Svona gengur það nú oft og tíðum, en þetta er heilsusamlegur hreinsunareldur. Auðvitað er það mjög ervitt fyrir menn, sem hafa búið hér heima við allgóð kjör, og ef til vill mannvirðingar, að verða að standa svo niðurlútir, oft og tíðum fyrir miklu minni mönnum en þeir eru sjálfir. Jæja, hvað um það. Beiska meðalið getur einatt verið betra læknislyf, en hitt, sem sætt er á bragðið, og svo er um þetta. Þegar vel gengur, koma þeir heim með máske 75 cent eða kanske dollar að kvöldi. En þetta, þó lítið sé, er þeirra eigin eign, innunninn fyrir framkvæmd þeirra og atorku, nóg fyrir matinn á morgun, án þess að hafa fengið hann lánaðan í búðunum og það sem meira er í var-

ið, þetta gefur þeim djörfung og hug til þess að reyna aftur, og það er eitt af aðalskilyrðunum hvar sem er og ekki sízt í Ameríku, til þess að komast til auðs, vegs og virðingar, eins og hitt er til niðurdreps, að láta hugfallast og leggja árar í bát, sem kallað er, hvað lítið andstreymi sem mætir.

Auðvitað eru nú margir af þessum verkamönnum í bæjunum í Ameríku, sem aldrei komast hærra en það, að geta að nafninu til framfleytt sér og fjölskyldunni á daglaunavinnunni, og sumir ekki einu sinni svo mikið. En svo eru aðrir, sem smámsaman geta dregið svo lítið til muna og sem þá annaðhvort geta komizt að betri kjörum eða þá upp á eigin spítur byrjað einhvern atvinnurekstur svo sem verzlun og annað fleira, og hefir ýmsum farnast það vel, þótt margir hafi orðið á hakanum, og eitt er víst að þeir örfáu Íslendingar í Winnipeg, sem kannske mætti kalla ríka, hafa byrjað á líkan hátt, stigið fyrst í neðstu tröppuna og svo fetað sig uppeftir. Það vil eg líka taka hér fram, að bæði í Winnipeg og öðrum bæjum vestra eru allmargir, sem hafa við vel viðunanleg lífskjör að búa og þó að þeir nú ekki séu ríkir, þá er þó heldur ekki hægt að segja að þeir sé fátækir.

Hér hefi eg nú talað um þá, sem vel gengur, en hinir eru líka allmargir, sem miður vegnar. Það er auðvitað eins og víðar. Stöðuga baráttan fyrir munni og maga.

»En hvort er nú annars betra að búa í Ameríku eða hér heima?« er held eg hið næsta, sem eg hefi verið spurður að. Eins og nú er komið báðum löndunum, er það mjög mikið álitamál. Ísland þótt nýlega hafi rumskast af margra alda svefni, hefir nú þegar sýnt og gæti sýnt enn þá betur, að það þarf ekki að vera neinn eftirbátur Ameríku, því þó akrarnir þar í Ameríku gefi af sér fjölbreyttari uppskeru en garðarnir og túnin hér á Íslandi, þá er það engin sönnun. Vel ræktuð tún hér geta framleitt fullkomlega eins mikið peningavirði, eins og hveitiakrarnir í Norðvesturlandinu, þegar tekið væri meðaltal margra ára og er það þó talið það land í Ameríkn er.einna mestan

arð gefur af sér, því oft kemur fyrir, að akurinn bregst að hálfu eða öllu leyti, svo sem af næturfrostum, skógareldum, hagli, fellibyljum o. fl. Hér eru eru aftur naumast dæmi til þess, að tún bregðist algjörlega og mætti þó hlúa betur að þeim en gjört hefur verið enn þá. Það mun láta nokkuð nærri sanni, að ef tekið væri meðaltal af uppskerunni af ekrunni í hin síðastliðnu 20 ár, að hún hafi verið 16 hveitibushel af ekrunni (1 bushel er kvartel eða 2 skeffur) og verðið 75 c. á bushelinu og hygg eg nú, að eg leggi þó vel í með hvorutveggja. Þá gjörir nú uppskeran $ 12,00, 1 dollar er um kr. 3,73. Setjum nú aftur svo, að túnin hér væru í vel góðri rækt, og gjöri eg þá að 15 hestar fengjust af vallardagsláttunni, og er nú víst óhætt að meta hestinn á kr. 5,00, yrði það þá kr. 75,00. Nú er um hálf önnur vallardagslátta í ekrunni og yrði þá af jafnstórum bletti af hvoru um sig, akrinum tæpar kr. 45,00 en túninu kr. 112,00 og er það geypilegur munur. Eg veit nú að margur mun segja, að það sé munur á fyrirhöfninni við hveitið eða töðuna og er það áreiðanlegur sannleiki, þar sem ekki eru brúkaðar aðrar vélar við heyaflann en hestbakið, bæði til að flytja mykjuna út um túnin, og töðuna heim í hlöðuna, og svo handorfið og hrífan við heyskapinn, og mun þetta allvíða eiga sér stað ennþá hér á landi, en mismunur þessi mundi að mestu hverfa, ef brúkaðar væru að sínu leyti eins fullkomnar vélar hér við töðuaflann, eins og þær sem hafðar eru við hveitiakurinn í Ameríku. Enn þá segja aðrir: »Hér er svo seinlegt að auka út túnin því áburðinn vantar.« Getur verið, en skyldi þá ekki vera hægt að auka hann? Búfræðingarnir svara því. En svo er nú líka hæpið að gróðrarmoldin í Ameríku endist um aldur og æfi, þótt víða sé þar frjósamur jarðvegur, Það segir gamall málsháttur að það sé djúpur brunnur sem ekki verður upp ausinn og hvar eiga þá akuryrkjubændurnir að taka áburðinn, sem margir hafa örfáa gripi?

Svo er nú líka annað, að bújarðirnir í Ameríku eru mjög svo takmarkaðar að stærðinni til, að eins 150 ekrur

hið gefna land, um 240 vallardagsláttur, en oft er samt hægt að kaupa sér land í viðbót, enn sem komið er, en það vitanlega kostar talsverða peninga. Líka er stundum hægt að nota ótekin lönd skamt frá til beitar og jafnvel til heyskapar, en það er alt undir hælinn lagt, hve lengi það endist. Fyr en varir getur einhver komið með heimilisréttindi, og þá er nú alt búið að vera með hlunnindin á þeim skikanum.

Öðru máli er að gegna með íslenzku bújarðirnar flestar hvorar. Þær eru, fjöldinn af þeim, að minsta kosti svo, að landrýmið er nægilegt, yfirfljótanlegir hagar fyrir kvikfé, og allstaðar tækifæri til að auka við túnin. Því ætti nú ekki landbúnaður að borga sig eins vel hér, eins og vestra? Því er auðsvarað. Menn vantar fyrst af öllu trú á landið, hugrekki til að voga nokkru, og síðast þekkingu til að nota hið litla, sem vogað er, á réttan hátt. Þetta auðvitað smá lagast, og er nú þegar auðsjáanlegur góður vísir í þá átt. Já, miklu meiri en margir halda, en þó er það víst, að þessi vísir, á eftir að verða fullþroskað ber, og berin eru það, sem allir vilja en ekki grænjaxlar.

En nú er dálítið annað sem verður að taka með í reikninginn, þegar borið er saman Ísland og Ameríka. Það eru ýmsar auðsuppsprettur, sem hvert landið um sig hefir að geyma. Þeir sem verða drukknir af Ameríkulofinu, segja sem svo: Hvað er hægt að telja Íslandi til gildis á móts við Ameríku? Þar eru því nær óteljandi atvinnuvegir, hver getur valið um eftir því sem honum líkar bezt. Þetta er nú sannleikur, og altsaman gott og blessað. En er ekki einn atvinnuvegur, eða réttara sagt tíu, ef þeir borga sig vel, betri heldur en t. d. þúsund, ef þeir gefa af sér minni arð? Það er ekki komið undir fjölbreytni vörunnar sem maður selur hve mikið er hægt að leggja inn í bankann, heldur undir vaxtarmagni, samfara verðmæti hverrar gjaldgengrar vöru sem er. Sá sem t. d. hefir aðeins eina eftirsókta vörutegund fram að bjóða, getur orðið ríkari en hinn, sem hefir hundrað, aðeins að hann hafi nóg til af henni. Nú er eitt sem Ísland hefir fram

að bjóða. að líkindum í frekari mæli en nokkurt annað land í heimi, og það eru hlunnindin af sjónum. Allir hljóta að vita, að það er ótæmandi auðsuppspretta í hafinu við strendur Íslands, aðeins ef menn hefðu vit á að færa sér hana réttilega í nyt. Fyrir fáum árum voru hér stórfeld framfaraskref í þá áttina, en nú hefi eg frétt síðan eg kom hér til lands, að það væri alt heldur að dofna, að sá útvegur borgaði sig naumast, og allmörg skip yrðu látin standa uppi í sumar. Sé nú þetta satt, þá er mjög sorglegt til þess að vita. Ef það ekki borgaði sig að veiða við strendur Íslands, þá mundu útlendingar ekki sækja hingað langann veg, ár eftir ár, til þeirra hluta, þar sem þeim er þó gert miklu erfiðara fyrir en landsmönnum sjálfum, með landhelgislögunum. Margir hér bera því nú við, að menn séu orðnir svo kaupdýrir, að það þess vegna borgi sig ekki; en ekki munu þeir vera kauplægri, sem ráða sig á skipin er koma frá Ameríku. Það ætti líka að vera hægt að koma í veg fyrir þess konar, með því, eins og sumir gera, og sem ætti að vera alment, að ráða menn upp á hálfdrætti, eða vissann hluta aflans: með því væri líka fengin vissa fyrir því, að hver og einn gerði eins vel og hann gæti.

En nú eru enn þá nokkrir, sem segja: »Hvað vegur nú þetta, sem þú hefir reynt að telja til, upp móti allri þeirri auðlegð, sem Ameríka hefir að geyma í iðrum jarðarinnar«? Hefir þú ekki heyrt getið um gullið og silfrið, kolin og koparinn, zínkið og sementið og svo ótal margt fleira, sem of langt yrði upp að telja, jafnvel fyrir canadiskan stjórnar-agent. Þetta er nú að vísu alt satt, og ómögulegt að neita því, að þó að hinn beini hagur lendi mestmegnis hjá auðfélögum og einstökum mönnum, þá hefir þó landið í heild sinni ómetanlegann hagnað af því, já, svo mtkinn, að það hlýtur að teljast einn af stærstu kostum Ameríku. En hafið þið nú rótað mikið við mýrinni hérna við Reykjavík, piltar góðir? Þeir stinga saman nefjum um það strákarnir hérna, að það sé ekki svo ýkja mikið. En fá munu þau lönd vera í heimi, önnur en Ís-

land, þár sem menn finna gull eður aðra dýrindis málma í staðinn fyrir vatn, að brunnurinn yrði ekki víkkaður og haldið áfram að grafa til þess vissa væri nú fengin fyrir því, um hvað mikið væri að ræða, og áreiðanlegt er það, að hann hefði verið orðinn býsna stór hjá Ameríkumönnum, eftir tvö til þrjú ár. Þeim verðar aldrei svefnsamt ef þeir eiga að liggja á gullhrúgunni án þess að fá að róta við henni. Jæja, hversu nú sem mikið eða lítið er af gullinu, silfrinu og zínkinu hérna við Reykjavík, þá er þó vissa fengin fyrir því, að dýrir málmar eru til á Íslandi. En svo er nú engin hætta á að þeir fjúki, og því óþarfi að hraða sér til að ná þeim! Þeir geymast ekki betur annarsstaðar!

En nú er enn ótalið eitt sem Ísland hefir í sér fólgið fram yfir flest eða öll önnur lönd, og það er aflið. Aflið, sem það er svo ríkt af, að það naumast verður með tölum talið. Það er þetta óþrjótandi vatnsafl um alt land, sem gæti jafnvel skapað atvinnu fyrir miljónir manna, því eins og það er satt að »auðurinn er afl þeirra hluta sem gera skal«, svo er og hitt engu ósannara, að það er aflið, annaðhvort andlega eða líkamlega, sem skapar auðinn. Og hér eigum við nú þetta afl rétt við hendina, sem yfir þúsund ár hefir boðist til að vinna fyrir okkur, án þess við þyrftum nokkru til að kosta, nema beizlinu, svo að hægt væri að stýra því. En svona hefir það gengið enn þá fram á þann dag í dag, að tilboðið hefir því nær gersamlega verið forsmáð, en ætíð hefir verið sama viðbáran, síðan annars nokkrum fór að fljúga þetta í hug: »Við erum svo fátækir að við getum ekki einu sinni lagt til tauma á beizlið«. Gamli íslenzki barlómurinn. Landið er auðvitað fátækt, en þó ekki svo, að ekki hefði margt verið hægt að gjöra, með góðum vilja og félagsskap, af ýmsu því sem enn er ógert, ekki síst ef landstjórnin með ráðum og dáð styrkti allar framfaratilraunir, og það ætti sannarlega að vera markmið hennar. Ég hefi frétt, að nú mundu nóg kol fundin hér á landi, og er það auðvitað gott og gleðilegt, en þau kol höfum við sjálfir eiginlega

ekkert með að gera, nema til þess að hafa þau fyrir verzlunarvöru. Rafmagnið er hreinlegra og þægilegra, og ekki þyrfti íslenzka vatnsaflið að rétta út nema einn fingur sinn, til þess að nógur hiti og ljós væri á hverju heimili á landinu.

Eg held nú af þessu sem eg hefi sagt að framan, að hægt sé að ráða í álit það sem eg hefi á hvoru landinu um sig. n.fl. að með sömu viðleitni og þekkingu, þá sé hreint ekki að nokkru leiti lakara að bjargast hér á Íslandi en í Ameríku, og meira að segja, viðleitni og þekking er nú þegar komin það á veg hér, að mikið efamál er það, hvort nokkuð er unnið með því að flytja vestur.

Þá hefi eg verið spurður: »Hafa nú Íslendingar nokkuð grætt á því að flytja vestur?« Því verð eg að svara bæði játandi og neitandi. Margir þeirra er fluttu vestur á fyrri árum hafa eflaust í efnalegu tilliti haft hagnað af því, enda hagaði þá alt öðruvísi til hér á landi en nú. Harðinda ár, sem menn þá höfðu ekki vit til að mæta, engar verklegar framfarir, og það sem verst var af öllu, engin framtíðartiltrú á landinu. Þessir menn græddu yfirleitt á því að flytja vestur, þeir fóru héðan margir úr basli og bágindum, jafnvel ýmsir af þeim kostaðir af sveitinni, en eru nú hávaðinn af þeim í vel viðunanlegum kringumstæðum. Auðvitað hefir nú þetta ekki fengist fyrirhafnarlaust. Nei, nei, þeir hafa orðið að hafa mikið fyrir því, en hvað um það, þegar sigurinn er unninn þá koma sigurlaunin einatt skömmu síðar, og getur það átt við þá. Þeir eru nú viðurkendir sem einhverir hinir beztu borgarar landsins, bæði fyrir ráðvendni, siðgæði, löghlýðni, námfýsi, dugnað og sparsemi, og þannig ekki að eins áunnið sjálfum sér heiður, heldur og allri hinni íslenzku þjóð yfir höfuð.

Öðru máli er að gegna með þá sem vestur hafa flutt á seinni árum, að því leiti að þeir mundu að minni ætlan hafa komist fullkomlega eins vel af á Íslandi, eða jafnvel betur margir hverjir. Hér hefur bæði verið allgott árferði og það sem engu minna er í varið, þjóðin hefir tals-

vert vaknað til framkvæmda á ýmsan hátt, og hvert árið leiðir betur og betur í ljós, fjársjóðu þá sem fósturjörð okkar hefir í sér fólgna. Doðinn og drunginn, sem áður lá eins og martröð yfir þjóðinni, er smátt og smátt að hverfa rétt eins og dalalæðan fyrir morgunblænum. Það sem fyrir nokkrum árum þótti ókleyft að vinna, er nú þegar sumt af því komið í framkvæmd, og líkur til að árlega bætist við meira og meira. Að öðru leyti gildir hið sama um þá Íslendinga, sem á seinui árum hafa flutt vestur. Þeir hafa yfirleitt áunnið sér hylli og virðingu Ameríkönsku þjóðarinnar; og þótt margir enn þá standi í sama farinu og þegar þeir komu, þá eru þó ýmsir á meðal þeirra, sem eru á leiðinni upp á við, en það hygg ég að hefðu þeir verið kyrrir hér á gamla landinu, að þeir hefðu ekki þurft að herða eins á hverri taug og hverjum vöðva, til þess að feta upp jafn margar tröppur í stiganum til sjálfstæðis og velmegunar.

»Hvað hafa Íslendingar andlega grætt við það að fara vestur?« Þetta er spurning, sem ætíð hefir verið lögð fyrir mig fyr eða síðar í samræðunni um Ísland og Ameríku. Ég hefi nú hér að framan reynt að skýra frá efnalegum gróða eða tapi vesturfara, og getur hver og einn dregið þá ályktun þar af, sem honum sýnist, en þar sem nú maðurinn lifir ekki á einusaman brauði, þá verður og líka hitt að koma til sögunnar, hvernig andinn hefir þroskast eða þá visnað. Í því sem vanalega er kölluð bókleg menntun, hafa nú hinir eldri að mestu orðið að búa að því litla sem þeir fengu á fósturjörðunni, því bóklestur verður lítill þegar menn vinna baki brotnu alla daga og koma því þreyttir heim á kvöldin. Hinir yngri ganga mikið á skóla, einkum í borgunum, og gerir stjórnin alt sem í hennar valdi stendur, og hún að líkindum hefir vit á, að hafa þá sem bezta; en samt sem áður eftir níu mánaða kennslu á ári í 8 ár, (ég tala hér um barnaskólana), þá virðist árangurinn vera tiltölulega lítill; mun það koma mest af þeim ástæðum, að börnin eru látin byrja of snemma, að þeim er hrúgað saman of mörgum í

sömu kennslustofuna, og skólaárið er of langt; kemst svo sú hugsun inn hjá þeim að þetta sé skylduverk, eins og raunar er, því víða er skólagangan lögboðin, og óvilji hjá mörgum þeirra rétt eins og hjá okkur, þegar við vórum að læra »Hinn litla katekismus«. Nokkuð er það, að fjöldinn af þeim sem útskrifast les naumast annað framvegis en dagblöðin, og svo ýmiskonar skáldsagnarusl. Í mentunarlegu tilliti, þegar öllu er á botninn hvolft, álít ég því ekki að Íslendingar hafi grætt mikið á því að flytja vestur.

En nú kemur hin hliðin til sögunnar: hugsunarhátturinn. Þar álít eg að þeir hafi tekið stórum framförum. Vestur-Íslendingar skoða sig nú ekki lengur sem guðsvolaða aumingja, sem þurfa að bera hattinn í hendinni, ef þeir mæta prestinum, eg tala nú ekki um sýslumanninn. Nei. nei, þeir skoða þá báða jafningja sína, og sig jafningja þeirra; með öðrum orðum, þeir álíta þá að eins menn eins og sig sjálfa, en ekki neina hálfguði, virðingarverða og heiðvirða, ef þeir standa vel í stöðu sinni, en jafna götustráknum ef þeir vanrækja skyldu sína. Þetta er eitt af því góða, sem menn læra af Ameríkuþjóðinni, og það ósjálfrátt. Hún fæst ekki um það hvaða stöðu maðurinn hefir verið settur í, eða þá valið sér sjálfur, heldur um hitt hvernig hann stendur nú í þessari stöðu sinni. Fjósakarlinn, eða vikadrengurinn, sem gerir af trú og dygð, það sem húsbóndinn segir honum, er hafður í langt um meira áliti, en t. d. borgarstjórinn ef hann vanrækir skyldu sína, hvenær sem hann getur. Þetta er það sem gefur þjóðinni þor og djörfung, og útilokar allan kúgunaranda, sem því miður átti sér alt of mikinn stað á Íslandi áður fyrri, þegar eg var hér kunnugur. Vonandi að beytingin sé orðin mikil til batnaðar, en hugsað gæti eg mér þó, að enn þá lifðu glæður í kolunum og styrkist eg í þeirri trú af þessu endalausa »þér« og »yður«, sem flestir virðast þurfa að burðast með. Getur verið að þetta sé vitleysa, um það veit eg betur þegar eg kem upp til sveitanna.

Annað, sem hugsunarháttur Íslendinga hefir breyzt

til, batnaðar með er, að þeir eru hættir að víla og væla, hafa kastað barlóminum í eldstóna. Þeir kannast við í fylsta máta það lítið sem þeir eru, hvort heldur það nú er í efnalegu tilliti eða öðru, en þetta annað er nú svo lítið, að það þarf naumast à það að minnast; titlar og metorð eru svo ógnar fá á meðal þeirra og aldrei nein hellirigning af krossum né þess konar djásnum. Aftur, þegar t. d. Canadastjórnar erindsrekar koma til þeirra, til að taka framtalið, þá er ekki verið að draga undan; því er tjaldað sem til er, enda verður þá bæklingurinn, sem stjórnin af náð sinni útbýtir gefins, þess tilkomu meiri. Þó þetta sé nú ekki stórt atriði, þá getur það ef til vill, vilt sjónir fyrír þeim mönnum hér heima, sem hafa gert sér það að skyldu að halda ætíð eftir við framtalið, eins og fyrir vanhöldum; því þegar þeir lesa þessar ljómandi skýrslur að vestan, þá kanske hugsa þeir sem svo: »Hvað skyldu þeir nú eiga annars alls þegar þetta er nú að eins framtalið. Þeir þarna í Ameríku eru þó ekki sagðir að vera nein fyrirmynd í ráðvendninni«.

Eg hefi verið spurður að, hvernig siðferði karla og kvenna væri þar vestra. Auðvitað get eg engan dóm á það lagt, en samt hygg eg, að það taki hreint engum stakkaskiftum til batnaðar, þegar vestur yfir hafið kemur, og þó að óþverrar finnist, bæði hér heima og vestra, eins og raun bar vitni um, nú fyrir skemstu, sem álíta það skyldu sína að níða kvenfólkið hérna, þá ímynda eg mér að það geti staðist fullkominn samanburð við systur sínar þar vestan hafs. Víða er pottur brotinn, og svo mun vera í báðum stöðunum, og annars hvar sem leitað er í þessum breyskleikans heimi.

Hið erviðasta spursmál sem fyrir mig hefir lagt verið er um það, hvernig trúarlífið sé fyrir vestan. Eg er mjög lítill kirkjumaður, og þekki því ekki mikið til þess konar málefna; mundi og margur ætla, að svarið væri þegar áður fengið hjá síra Jóni gamla í Winnipeg, svo miklu hefir hann mokað á prent af trúmálunum, og minst þar bæði gamla og nýja landsins, og hver skyldi efa sannind-

in á orðum höfuðprestsins. En úr því eg hefi nú verið spurður að þessu, þá skal eg láta í ljósi mína eigin hugmynd, og hún er sú, að Lúterskirkjan vestra, eins langt og síra Jón getur þanið vængina, sé enn þá meir gamaldags og einstrengingsleg heldur en hér heima. Auðvitað eru það margir, sem skipa sér undir merki síra Jóns, en hvort það gera allir vegna Guðs, það vita þeir sjálfir bezt. Að einu leiti standa Vestur-Íslendingar þó framar í trúarefnum og það er, að þeir hafa myndað hjá sér mjög frjálslyndann trúflokk, — Únítarakirkjuna, sem þroskast óðfluga, enda hafa þeir ágætan fyrirliða, þar sem er síra Rögnvaldur Pétursson ritstjóri Heimis.

Eg hefi verið spurður að, hvort eg héldi að margir Íslendingar vestra mundu vilja flytja heim aftur. Nokkuð sem ekki er svo auðvelt að svara. Eitt er samt víst, að heimþrá er í allmörgum, og eins hitt, að Íslendingar yfirleitt unna gamla landinu, þar sem þeir hlustuðu á fyrstu vöggukvæðin sín, en bæði er það að hinir eldri, sem nú eru komnir í góðar kringumstæður, búnir að lýja krafta sína og eiga uppkomin börn, þar innfædd, sem skoða Ameríku, og það með réttu, sitt eigið land, mundu margir verða tregir til nú á efri árum sínum að fara að yfirgefa heimili það, sem þeir hafa eignast fyrir margra ára súrann sveita, og leita á ný fyrir sér í nokkurskonar óvissu; ekki síst þar sem börnin þeirra, mörg að minsta kosti, mundu heldur vilja vera kyr, en flytja til framandi landa. Aftur um hina, sem skemur hafa verið, og ekki eru komnir eins langt áleiðis, þá mundu margir af þeim vilja flytja heim aftur, ef það ekki stæði í vegi, að tekið af litlum efnum, þá er kostnaðurinn mikill og ekki að neinu vísu að hverfa, þar sem hér er ekkert gert í þá átt, að tryggja mönnum atvinnu, þegar hingað kemur. Samt sem áður ímynda eg mér, að nú eftir þetta fari að flytja hingað einstöku menn að vestan, en auðvitað gæti stjórnin hér tífaldað þann innflutning, ef hún vildi, þó ekki væri nema til hálfs feta í fótspor Canadastjórnarinnar. Hún þyrfti ekki t. d. að gefa út eins loga-

gyltan bækling og núna seinast kom að .vestan, heldur að eins safna sönnum og áreiðanlegum skýrslum frá þeim mönnum víðsvegar hér um land, sem hafa komist bezt upp og áfram, síðan vesturfarir hófust og dreifa þeim út meðal Íslendinga vestra. Láta svo einhvern vel kunnugan mann ferðast þar um og kynna sér hið sanną ástand þar, gera samninga um beinan og ódýran flutning, og svo sjá um, að allir fengju eitthvað að gera, þegar hingað kæmi. Með þessu móti mundu margir verða til að flytja. Og án þess það sé af nokkru þjóðardrambi, eður elsku til Vestur-Íslendinga, þá er það álit mitt, að þeir verði heppilegustu innflytjendurnir. Ber einkum þrent til þess. Þeir kunna málið, bera flestir hlýjar tilfinningar í brjósti til fósturjarðarinnar, og hafa lært að vinna í því landi, sem einna lengst er á veg komið í öllu verklegu.

Eg hefi nú reynt að segja eitthvað um flestar þær spurningar, sem lagðar hafa verið fyrir mig. Að eg hafi leyst rétt úr þeim öllum, það verður tíminn og reynslan að dæma um, en eitt er víst, að eg hefi hvergi vikið hársbreidd frá því, sem eg áleit sannast og réttast. Skal eg nú í fám orðum lýsa því yfir, hvert álit eg hefi á málefninu.

Eg álít að Ísland hafi fullkomlega eins mikla kosti að bjóða og Ameríka, eins og nú til hagar, og það ennþá hafi svo mikið falið í skauti sínu, að það sé enn meira framtíðarland en hún. Að samt sem áður hafi Íslendingar sem vestur fluttu á fyrri árum, grætt við skiftin, en nú sé sú gróðavon á sandi bygð, fyrir þeim sem hugsa til Ameríkuferðar. Að Íslendingar vestra hafi fengið sjálfstæðari og þrekmeiri hugsunarhátt, og að Ísland á endanum fái bætta þá voðablóðtöku, er vesturferðirnar hafa veitt því, með því að hér eftir fari við og við ýmsir að flytja heim að vestan, er einhverju góðu frækorni geta sáð á gamla landinu

Að endingu vil eg svo óska þess af innstu sálu minui og eg veit, að þér allir í hljóði biðjið hins sama: Að lengi lifi Ísland og að lengi lifi þess beztu synir og dætur,

---

